# Grafskrift:

*Vit Þú, vinur! er verdleicum annt:*
*Þad eitt er leidt hér, sem leyft var dauda*
*Af Valmenninu, Valdsmanni Konúngs*
*MAGNUSA KETILS merkis SYNI.*
*Og Konu Hans fyrri, qvenncosti betsta*
*RAGNHILDI EGGERTS ríeri DOTTUR*
*Er átti Hann med ellefu Barna*
*En vard Eckili ad vísi því dyrsta,*
*Og giptist aptur göfugri Eckju*
*ELINU BRYNJULFS edla DÓTTUR*
*Sem enn lifandi söcnud sárann ber.*
*Er Hún of fleirsta einhvör hin bezta*
*Stjúpmódir sinna Ectamanns Barna.*
*Qvenncostur mesti og córóna manns síns.*
*Gud veri Hennar gledi og adstod,*
*Og eilífa sælu annars heims gefi!*

---

*Hann var borinn*
*Og barnfæddur*
*Á alldar átjándu*
*Ari þrítugsta*
*Aundverdlega*
*I August's mánudi.*
*Hann útscrifadist*
*Ara nitján*
HÓLUM *frá*
*Til* HAFNAR *sócti*
*Veg med vísdómi*
*Valdsmadur kjörinn*
*Af* DANA *Jöfri*
*Yfir* DALA-ÞÍNGI.
*Taldist þá datum*
*Tjedrar alldar*
*Fimmtigi ár*
*Og fjögur betur.*

*Til átjánhundrud*
*Aukin þrimur,*
*Gécc Hann Dóma,*
*Gádi valda.*
*Ad fimmtigi árum,*
*Fremdar Aulldúngur.*
*Uns sjötigi og þriggja*
*Saddur Lífs-Ára,*
*Deydi tvi-qvæntur.*
*Til dyrdar hafinn*
*Af gódum engli*
*Guddóms vilja.*
*Horfinn er* MAGNUS
*Haudur búum;*
*Verdt er þó minnast*
*Ad vitur Höfdíngi*
*Odaudlegt nafn*
*Eptir sig lætur,*

*Lærdóms og letra*
*Og lands-elscu.*
*Húsfadir var Hann*
*Harla gódur,*
*Og frædari úngra*
*Fágætari.*
*Hauldur ad búi*
*Haldinn einn mezti;*
*Ecta-qvinnum*
*Og Baurnum bezta*
*Forstada, Fadir*
*Og Fyrimynd.*
*Ástfólginn vinum*
*Adstod Náúnga,*
*Fátæcum, eckjum*
*Og faudurlausum*
*Máttar-stod*
*Og meginn styrcur.*

---

Merkis Hjónin
Magnús, Ragnhildur,
Leifdu svo heimi
Lofsverdt dæmi
Mannprydis
Og manndóms verka
Dyrstu dygda
Og dugnadar
Gudrœknis
Og göfuglyndis.

Lifa þaug æ
I lofstyr allda;
Lifa í dád sádri
Hjá dygdugum nidjum;
Lifir sál þeirra
I sælum himins;
Lifir lofs minníng
Yfir leidi þeirra;
Eckert er dáid
Nema daudlegleikinn.

Til verdugrar minníngar vann ad setja,
Forelldrum beztu fá ord þessi

J. MAGNUSSON.

